# Auglysing og Avarp

til

# Islendinga.



## Opid Bref,

med hvørju Konwngur krefur: ad Þegnar hans stundi Sparsemi, og hagnyti innlendskar Handydna- og Konst-vørur.



Leirárgørdum, 1809.

Prentad, ad Islands Stipt-Amts Bodi, af Fakt. og Bókþr. Schagfjord.



# Frederik enn Sjøtti,

med Guds Miskun, Danmerkur og Norvegs, Vinda og Gauta Konwngur, Hertogi Sles-vikur, Holsetulands, Stormæris, Þettmersk-is og Aldinborgar, Gjørum vitanlegt:

Það er markverdt Efni fyrir Vora landsfødurlegu Umhyggju, ad innlendsk Konst-ydn ætíd finna megi Upphvatníngu, til meiri og meiri Framfara í Vorum Løndum, og það er Vor Hjartans Ósk, ad Sparnadur verdi allstadar heidradur medal Vorra Þegna, svo sem Medal til ad ebla sannarlega Velgengni, og grundvalla Búnadar-heill Manna.

Kjærleiki Þjódarinnar til Vor og hennar Tilfinníng egin Orku og Verdugleika, géfur Oss Rétt ad vænta þess: ad enginn Dánumadur eda Dándisqvinna vilji leida hjá sér, ad samverka til Uppfyllíngar Vorri Ósk, og til þess elskada Fodurlands Heilla.

Í því Trausti krefjum Vér, svo sem Konúngur og Landsfadir, af Vorum sameginlegu Þegnum af hvørjutveggja Kyni, ad þeir ástundi þá Sparsemi yfir Høfud, og einkanlega í Klædaburdi, sem nú yfirstandandi Styrjaldar Tíd gjørir naudsynlega, og hagnýti svo innlendskar Handydna- og Konst-vørur, ad þetta nú ecki einúngis verka megi Gagn fyrir Ríkjanna Peninga-Gángverd, og veita innanlands Ydjusemi Vidgáng og Utsølu, heldur einnig

legg-



leggja Grundvøll til sømu Heilla, þegar Fridurinn á ný blessar Vor Ríki og Lønd.

Skrifad í Vorum konúnglega Adseturstad **Kaupmannahøfn**, þann 14da Decembr. 1808.

# FREDERIK R.

KAAS.

Cold. Knudsen. Bülow. Monrad.



Med ofanskrifudu **Opnu Bréfi**, hefir konúnglegri Hátign þócknast allranádugast ad auglýsa: ad Hans Vilji og Bodord um øll Hans Ríki og Lønd, sé Almennings Sparsemi, og Hagnýting egin Handydna í framandi missanlegs Varnings eda óþarfs Gllngurs Stad, hvad þessvegna ætti því framar nú sérílagi ad vera Regla øllum Islands Innbúum, sem Þørfin þegar í nockrum Landsálfum, og þá minnst varir, máské vaxandi almenn, á núverandi Styrjaldar Tíd, rædur sérhvørjum skynsømum og gódum Manni í Tíma og strax, ad láta sér þá Reglu hugfasta vera, og kappkosta ad bjargast vid þad Margsháttar, sem vort Fødurland vída ríkuglega frambýdur, en sem, því midur! er ennþá sárilla hagnýtt, hvad Konúngur vor bodid hefir Landsins Háyfirvøldum ad brýna fyrir Almenníngi, og ad leggja nú, þá Neyd kann ódar enn varir adþrýsta, meiri Alúd á Laxa- Silúnga- og Sela-veidar, hvar Líklegheit nockur eru til, og hvørsu mørg frambjóda ecki óteluleg silúngafull Stødvøtn á Heidum og í Bygdum, mørg Stórfljót, Ar og Smálækir í Landi voru? einninn á Safn og Hagnýtingu Sølva og Ætiþángs, Fjallagrasa og Skelfisks til Fædis, Rjúpna og Fuglaveida med Snørum eda ødrum Veidibrellum, og hvílík er ecki Fugla óteluleg

Mergd



Mergd hjá oss um Land og Lá? Af øllum ætilegum Fuglum, hefir Konúngur med Bodi sínu, þann 21ta Julii 1808, einúngis undanskilid Ædarfuglinn, og skipad: alvarlega „ad brýna fyrir Almenníngi: ad hvørr, sem nock-„ursstadar drepur eda veidir þenna nytsama Fugl, hvørn kóngleg „Tilskipan, þann 13da Júnii 1787, baud ad frida, má vidbúast ad „sæta því, í hærstnefndri Tilskipun, ádur fastsetta Straffi," sem í hennar III. Kap. 7da Art. er tiltekid þriggja Marka Sekt, fyrir sérhvørn Fugl, en þeir sem med vóru, og ecki segdu frá, bæti Hálfu minna, og hvørr sem af Illvilja skémmir eda eydir Varpplátsa Tilbúníngi, sektast Ofrikis Bótum, edur þrestum Fjøruthgi Lódum Sylfurs.

Hvílíkann Ard og Bjargrædis-stod gëfa ecki gódir og vel ræktadir Kál-, Róta- og Jardepla-Gardar sínum Egendum, nú þegar í nockrum Plátsum Sunnanlands, og annars vída um Heim? hvørsu holla og ljúffenga Fædu, sem Keisarar og Kóngar, og sérhvørr frá þeim nidureptir til ens aumasta Førukarls, meta sem dýrmætt Hnossgæti, en sem offair medal vor hafa, því midur! enn Vit á ad vyrda, sem ber, enn þótt fátt sé þeim hollara medfram, sem lengst af og mest Megnis hljóta ad bjargast af misjøfnum Fiskifengi.

Og þared einhvør hin fyrsta Skylda Mannsins er: med øllu leyfilegu og gódu Móti ad bjarga sínu og annara Lífi, en ecki ad deya Urrædalaus, eda sem agndofa í Omennsku og Sinnuleysi, medan Náttúran frambýdur hér svo mørg og mikilvæg Bjargarmedøl, þá hefir konúnglegri Hátign Sjálfri allranádugast þóknast, í allrahærstnefndri Alyktun, þann 21ta Julii 1808, ennþá ad benda til eins, sem hér er ad nockru Leiti í Hardindum þeckt og tídkad, en annars, sídan misskilinn Kristinndómur aflagdi þess almennu Brúkun, þó sjaldnar hagnytt, og þessvegna bodid: „Sømuleidis mega vidkomandi Háyfirvøld, bædi almennt áhýsa Al-„múga til Hrossakjøts-notkunar í núverandi Kríngumstædum, og „þarhjá fyrirskipa, ad þess Brúkun sé innleidd til Omaga Framfæris „bædi í Hreppum og vid Tukthúsid, til Vidurværis þeim Saka-

„monn-



„monnum, sem þarí eru, og, med tímanlegu Innkaupi, ala önn fyr-
„ir Útvegum þessa Bjargrædis; einig umsjá, ad þad, ásamt Nauta-
„og Sauda-kjöti, verdi vindþurkad, uppá Færeyinga Mód, og ad
„hreinleg og hagnadarsöm Medferd þess sé í frammi höfd."
Hvört konúnglegt Bodord, einn og sérhvörr í Landinu er skuldbundinn, med allra-
undirgéfnustu Hlydni og Vyrdíngu, ad láta sér hugfast til Eptirbreytni, þá nockur
Neyd adrekur, og sérílagi tilskyldast Embættismenn og Hreppstjórar, sem Ómaga
Framfæri ega ad umannast, ad halda sér þad fyrir óbreytanlega Reglu, ad því Leiti
Naudsyn eda Ástand bydur og leyfir, ecki síst hvad ydugleka Umsjón og Áminníngar
snertir, um Hrossakjöts þrifa- og sparsamlegu Medferd og Brúkun í Sveitunum,
því framar nú, þegar hún med konúnglegu Lögmáli er hér fyriskipud, sem híngadtil
einúngis óhöfleg Nautn og sódaleg Medferd þessarar annars, á fyrri og seinni Öld-
um, allvída um Heiminn og í voru Landi algengu og hentugu Fædu, hefir vakid
Misþocka Fólks til hennar óþrifnu Átvagla, en engannveginn til þessa Bjargrædis-
medals sjálfs, hvört réttskilinn Kristinndómur ecki leyfir ad fyrirlíta.

Áhrærandi Ordatiltækid í allrahærstnefndri konúnglegri Alyktun, þann 21ta
Júl. 1808, „um Vindþurkun þess, og Nauta- og Sauda-kjöts á
„Færeyinga Hátt," vil eg, til Upplýsingar, géta þess hér: ad konúngleg
Hátign vyrdist þar med hafa Tillit til þess líklegasta Skorts Manna hér á
Strídstíma, ef lítil Skipaferd bannadi Innfærslu Salts og hentugra Íláta til
Söltunar og Vardveitslu Kjötbyrgda til Vetrarforda, hvörn Reynslan og, vída
um Land, þegar sannar, ef ecki ásamt, til enn óhagnadarsamari Medferdar þess
hér, enn í Færeyum, hvörs vegna mér var uppálagt, med litlu prentudu Riti,
hvörju Konúngur allramildilegast baud hér géfins ad útbyta, og af hvörju eg
vona ad Embættismenn og Hreppstjórar, fái nockur Stycki send í sérhvörn Hrepp,
ad auglýsa á í Færeyum tídkanlegu Medferd á Kjöti, eda þess Vindþurkun, sem
ætíd mun verda þeim hollari, er skorta Salt og Ílát, heldur enn, til Óhollustu,
ad hylda Kjöt til Frambúdar, eda eldhúsreykja Missirum eda Árum saman, og sídan

ad



ad brúka þad eingaungu til midur heilnæms og drjúgs Fædis. Því er og í sama Ritkorni, medal annars, lítid eitt um Salltgjørd ávikid, og þó enn sídar sýnt med annari prentadri Avísun, er einnig géfins útdeilist, hvørsu af Þángøsku megi Sallts abla.

Kjærir Landsmenn! Ad Bodi vors allramildasta Landsfødurs, **Frederiks ens Sjötta**, Ydar Konúngs, hefir **Islands** Stiptamtmadur, Kammerherra Greifi Trampe, med dønsku Plakati, dagsettu 15da Maji þ. A., leidt Ydur sumthvad af þessu fyrir Sjónir; ad sama allrahærsta Bodi, er þad nú á ný, og ýmislegt fleira hér ad framan talid, Ydur øllum hérmed frá Islands Stipt-Amti opinberlega, á Landsins Túngu, kunngjørt, til allraundirgéfnustu Eptirbreytnis og Íhugunar. Sum Hérød vors Lands sakna nú þegar þeirrar Argædsku og ríkuglegu Blessunar af Sjó, sem gudleg Forsjón lét meir enn Helmíngi þess í Skaut falla, sakna naudsýnlegra Adflutnínga og hagqvæmrar Kaupverdslunar sídan Strídid hófst, en misfalli Arin vída um Land, Sjór eda Land algjørlega bregdist, sem opt má hér vidbúast, og nú þaráofan Strídid framvegis bagi hagqvæmri Kaupverdslun og Adflutníngum frá vorri Eyu, hvad er þá ad stóla uppá annad, enn þad, er Náttúran hér vída frambýdur af ýmislegu, og þad ríflega, ef hagnýtt væri? hvad annad til vors Framfæris, vors Skyldufólks og Þurfamanna Lífs, sem Náttúru- og Borgaraleg-løg og Kristinndómur þó bjóda oss ad umannast, þegar nú máské ecki í brád er venjuleg Hjálp møguleg frá ødrum? En þeckum gudlegri Forsjón, kjærir Landar! sem útbjó vort Land svo ríkuglega vídast med svo ríflegu Efni í daglegt Braud, enn þótt ecki med Kornabla, ad med sønnu má segja: ad séu þessi Medøl atorku- og sparsam-lega hagnýtt, vantar oss, eginlega ad tala, einúngis Járn, Timbur og Færi, til ómissanlegra Lífsnaudsynja, og þetta fáa, ef ecki annad, kann oss, máské midt undir Styrjøld, svo ad sendast, ad jafnvel lángvinnt Stríd ecki þurfi ad eydileggja vort Land eda þess Innbúa, séu þeir útbúnir med fúsri og naudsynlegri Gódvild og Samheldi, ad bjarga sér og hvørr ødrum, sem vel sæmir oss, sem afhólmudum Eybúum, en bródurlega sambundnu Fólki, er verdugt skal heita til ad stjórn-

ast



ast af þeim allramildustu Landsfedrum, Danmerkur, Norvegs og Is-lands Konúngum, af enni frægu og elskudu Aldinborgar Ætt. Vér erum ecki æfdir né útbrynjadir til Herfara, og megnum ecki ad vernda oss mót útvortis Fjandmanna miklu Ofurefli, þess er heldur ecki vænt, ecki krafist af oss; en þess høfdu Islands ódaudlegu Fedur, sá Fimti Fridrik, Sjø-undi Christjan og Sjøtti Fridrik, Konúngar, ætíd fullann Rètt til ad krefja af þeirra íslendsku Þegnum, hvørja, og Ætt þess-ara, þeir hafa svo optsinnis frelsad úr Daudans Qverkum, med minnisstædustu Velgjørdum sínum, um hvørjar minnst er Ydur fullkunnugt, enn þótt eg varpad hafi Tølu á fáeinar í Bókunum: Eptirmæli Atjándu Aldar, og Island i det attende Aarhundrede, ad þeir ecki hylli Landrádamenn, í hinna Stad, fyrir Drottna, ecki ærulaust og ómannlega brjótist undan þeirra Fødurstjórn, til ad selja Æru, Líf, Frelsi og Eigur á Obótamanna Vald, hvørra Drottinssvik hafa ad Løgum verdskuldad hinn óttalegasta en mest verdskuldada Dauddaga. Nei! Lands-menn! minnist Daganna frá 25ta Júnii til 22ars Aug. í Ar, og þackid Drottni, ad Þrældómsoki er aptur af Ydur hrundid. Fátækir og þurfandi eru víst margir af oss og allir verjulausir, en æru- og trygdar-lausir egum og þurfum vèr aldrei ad verda, né vors Fødurlands Landrádamenn; því sè ecki um annad minna ad velja, verdur ecki lángt Áhorfsmál, heldur ad deya med Æru, enn lifa Stórbrotamenn med Smán. Lengi og luckusæll lifi og ríki Danmerkur, Norvegs og Islands allramildasti Konúngur, Fridrik enn Sjøtti!!!

Islands Stipt-Amts Contoiri, þann 18da Sept. 1809.

M. Stephensen. .

